// Sameiningin.

Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, JÚNÍ 1894. Nr. 4.

## Davíðs sálmr 36.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

(Lag: Nú biðjum vér heilagan anda.)

1. Þín náð er, guð, sem himinn há,
er hingað niðr streymir skýjum frá.
Sólin himinsala
svífr hátt í skýjum;
þó um drögin dala
dreifir geislum hlýjum.—
Þannig þín er náð.

2. Þín tryggð er eins og traustbyggt fjall,
þótt titri jörð, er því ei búið fall.
Geystar öldur æða,
ólmir lemja vindar,
skellr þruman skæða,
skekkjast þó ei tindar. —
Þannig þín er tryggð.

3. Þitt ráð er eins og reginsær,
er rannsakað tll hlítar enginn fær.
Þar í djúpi duldu

dýrar perlur skína;
hefir svo á huldu
herrann dóma sína. —
þannig þitt er ráð.

4. þín vernd er eins og vængjaskjól,
er vermir hlýtt, þótt ekki skíni sól.
Athvarf unginn hefir
undir vængnum þýða.
Griðastað svo gefr,
guð, þín höndin blíða. —
þannig þín er vernd.

5. þín dýrð er eins og ljóstær lind;
þar ljómar skær og fögr himins mynd.
Lífs í lindum tærum
ljúfan teyg vér fáum.
Ljóss í ljóma skærum
ljósið þitt vér sjáum. —
þannig þín er dýrð.



Dr. William Alfred **PASSAVANT,** hinn mikli og ágæti starfsmaðr drottins, er látinn.

Hann andaðist að heimili sínu í Pittsburgh, Pennsylvaníu, sunnudagskvöldið 3. þessa mánaðar.

Dr. Passavant hafði um langan tíma skinið á söguhimni lútersku kirkjunnar eins og stjarna af fyrstu stœrð.

Hann var fœddr í smábœnum Zelienople í Pennsylvaníu 9. Okt. 1821 og var þannig á 73. árinu, er hann andaðist. Foreldrar hans voru lúterskir; af gamalli Húgonotta-ætt. Uppeldi það, er hann fékk, studdi að því, að kristindómrinn varð honum þegar í œsku hjartans málefni. Og snemma ásetti hann sér með guðs hjálp að verða sinni eigin göfugu kirkju, lútersku kirkjunni, að öllu því liði, sem hann gæti. Hann gekk á skóla þann, er *Jefferson College* heitir, þar í Pennsylvanía-ríkinu og útskrifað-

ist þaðan 1840. Síðan byrjaði hann guðfrœðisnám og útskrifaðist frá hinum lúterska guðfrœðisskóla í Gettysburg 1842; vann svo um hríð, samkvæmt umboði frá lúterskri synódu þar austr frá, að prédikarastarfi óvígðr. Árið 1844 prestvígðist hann til safnaðar eins („Fyrstu lútersku kirkju") í Pittsburgh; hélt hann því prestsembætti í ellefu ár, og hafði prestskaparstarf hans bæði mikinn og góðan árangr. En hið kirkjulega hirðisstarf hans náði brátt langt út fyrir Pittsburgh-söfnuðinn; hagr kirkjunnar í heild sinni í nútíðinni og framtíðinni lá hinum kærleiksríka manni mjög á hjarta, og eftir því sem árin liðu varð hin kristilega og kirkjulega framkvæmdarsemi hans æ víðtœkari. Í vestr-hluta Pennsylvanía-ríkis voru mjög margir lúterskir söfnuðir, en samband var lítið sem ekkert milli þeirra og sameiginleg kirkjuleg vinna því engin, þangað til Passavant tók til að vinna að því, að þar kœmist félagsleg sameining á. Þannig varð hin lúterska Pittsburgh-sýnóda til árið 1845; hefir það félag síðan skarað fram úr í því að grundvalla lúterska söfnuði utan sinna endimarka og senda út trúboða í allar áttir. Passavant var um langan tíma með heiðri og sóma ýmist forseti eða skrifari eða missíóns-formaðr í þessu félagi. Suðr í Texas er enskt lúterskt kirkjufélag, sem heitir Texas-sýnódas, og annað samkyns í Canada austr frá; urðu bæði þau félög til fyrir missíónsframkvæmdir Pittsburgh-sýnódunnar.

Árið 1846 sendi Pittsburgh-sýnódan Passavant sem fulltrúa sinn á nokkurskonar kirkjuþing, sem hið prótestantiska sambandsfélag, er *Evangelical Alliance* heitir, hélt í London á Englandi. Lítilfjörlegt atvik kom fyrir meðan Passavant dvaldi þar í höfuðborg hins brezka ríkis, sem varð orsök til þess, að hann tók til að vinna að því að koma á fót kristilegum líknarstofnunum fyrir kirkjuna. Snörp regnskúr kom yfir hann á götu einni þar í bœnum. Hann leitaði inn í fordyri byggingar einnar til að standa þar af sér skúrina. Og er hann litaðist þar um, sá hann á spjaldi yfir dyrunum, að þetta var munaðarleysingjaheimili. Spurði hann sig svo fyrir, hvernig á stofnan þessari stœði, og fékk leyfi til að kynna sér allt fyrirkomulagið innanhúss. Gyðingr einn hafði sett stofnanina á fót og helgað hana minning konu sinnar látinnar. Fannst Passavant mikið um, og varð út af þessu sá ásetningr fastr í huga hans, að grund-

valla svipaða stofnan í sinni kirkju til dýrðar frelsaranum, sem Gyðingar afneita. Upp úr Englands-ferð þessari hélt hann yfir um til meginlands norðrálfunnar. Komst hann til þýzkalands og heimsótti *Fliedner* prest í Kaiserwerth við Rín, sem frægr hefir orðið um allan hinn kristna heim fyrir *díakonissu*-stofnan sína og allt það líknarverk, er þar með er samfara. Og var erindi Passavants auðvitað aðallega það, að kynnast verki Fliedners, sér sjálfum til leiðbeiningar í hinu nýja kærleiksfyrirtœki, er drottinn hafði nú kallað hann til. Tók hann tafarlaust, er hann var heim kominn, að vinna í þessa átt. Og innan skamms varð til vísir að fyrstu líknarstofnaninni, sem hann kom á fót. það var í bœnum Alleghany, en skömmu seinna reis upp hið svo kallaða *Pittsburgh Infirmary*, stórt og merkilegt sjúkrahús, er oftast hefir kallað verið *Passavants hospítal*. Árið 1849 brá Fliedner sér yfir um til Ameríku, og komu með honum fjórar *díakonissur*, sem ágæta leiðbeining höfðu fengið á stofnaninni í Kaiserwerth í því að veita sjúkum mönnum andlega og líkamlega hjúkran; réðust þær til vistar á hinum nýja spítala Passavants. Var sú ágæta stofnan með því fullmynduð. Lærðu nú smásaman fleiri og fleiri kristilega hugsandi konur *díakonissu*-verk á þessum frumspítala Passavants og voru þaðan, eftir því sem á þurfti að halda, sendar í þjónustu kærleikans til hinna ýmsu líknarstofnana, sem hinum mikla manni með aðstoð guðs og góðra manna síðar tókst að koma á fót. Meðan borgarastríðið mikla milli norðrríkjanna og suðrríkjanna stóð yfir, veitti Passavant bæði í eigin persónu og fyrir tilstyrk kvennanna frá Pittsburgh sjúkum og særðum mönnum á stjórnarspítölunum víðsvegar um landið hina mestu hjálp, og hafði kirkja vor af því maklegan heiðr. Áhugi fór nú að koma upp annarsstaðar í kirkju lands þessa fyrir því að setja viðlíka *díakonissu*-stofnanir á fót, einkanlega í biskupakirkjunni ensku; en allt, sem í því efni hefir framkvæmt verið í hinum ýmsu prótestantisku kirkjudeildum, er til orðið fyrir áhrif frá hinum mikla starfsmanni lútersku kirkjunnar, dr. Passavant.

Næst á eftir frumspítalanum í Pittsburgh fékk Passavant á fót komið samskonar stofnan í Milwaukee í Wisconsin-ríki. þar næst er að telja hið svo nefnda *Emergency Hospital* í Chicago, og loks spítala í Jacksonville í Illinois. Nýtr nú fjöldi

sjúkra manna á ári hverju lækningar og kærleiksríkrar hjúkrunar á hverri einstakri spítalastofnana þessara. — En dr. Passavant var jafnframt að hugsa um hin munaðarlausu börn, og samkvæmt hinni guðlegu bending, er hann fékk við það að sjá barnauppeldisstofnanina gyðinglegu í London, vann hann að því með óþreytanda dugnaði, að grundvallað yrði eitt munaðarleysingjaheimilið eftir annað á ýmsum stöðum í landinu. Fyrst kom upp munaðarleysingjahúsið í Pittsburgh (*Laceville Orphanage* eða *Reed Street Home),* þar næst tvö, sitt á hvorum stað, í Rochester (Pennsylvaníu) fyrir stúlkur, og í Zelíenople (fæðingarstað Passavants) fyrir drengi, og voru þær stofnanir báðar í fyrstu nokkurskonar útbú frá barnaheimilinu í Pittsburgh. Síðar komu og upp samskonar stofnanir í Germantown (Pa.), Boston (Mass.) og Mt. Vernon (N. Y.). Tíu munaðarleysingjahús eru nú til í hinni lútersku kirkju þessa lands, og má tilveru þeirra allra, og auk þess margra í öðrum prótestantiskum kirkjufélögum, beinlínis eða óbeinlínis þakka Passavant.

Ellefu árum eftir að Passavant vígðist til prestskapar neyddu hin víðtæku störf hans fyrir líknarstofnanir þessar hann til að sleppa prestsembætti sínu; var hann úr því mjög á ferðum víðsvegar um landið til þess að vekja áhuga hjá almenningi fyrir stofnunum sínum og öðrum allsherjar-nauðsynjamálum kirkju vorrar. Og ekki er neinn lúterskr flokkr til hér í Ameríku, af hverju þjóðerni sem vera skal, að ekki bæri hann andlega velfarnan hans fyrir brjósti sínu.

Við ritstjórnarstörf átti dr. Passavant bæði vel og lengi Fyrst stýrði hann um tíma áðr en hann var vígðr vikublaðinu *Lutheran Observer* í forföllum hins eiginlega ritstjóra. Síðan tók hann að gefa út mánaðarrit það, er *Missionary* nefndist. það var árið 1845. Árið 1861 var það tímarit sameinað blaðinu *Lutheran*, og varð Passavant þá einn af ritstjórum þess. Árið 1880 stofnaði hann blaðið *Workman*, sem stöðugt hefir út komið síðan. það er eitt hinna stóru kirkjulegu tímarita, er gefin eru út í landinu, og kemr út tvisvar á mánuði. Var hann ritstjóri þess allt til dauðadags, og kemr þar vel fram það kirkjulega prógramm, sem hann miðaði við alla starfsemi sína. Hann vildi að samdráttrinn og einingin gæti orðið meiri í kirkjudeild vorri heldr en lengst af hefir verið. Öllum óþörfum flokka-

drætti milli hinna ýmsu flokka innan lútersku kirkjunnar vildi hann eyða. Hann var sannr friðarpostuli, hvar sem hann kom fram; dró því ávallt í blaði sínu allt það gott fram, sem hann vissi af hjá hverri einustu deild kirkju sinnar, hvort sem þær í einstökum trúmálaatriðum greindi meira eða minna á við þann flokkinn, sem hann sjálfr tilheyrði. Enda munu fá stórmenni kirkjunnar hafa náð öðru eins trausti og annarri eins elsku frá almenningi víðsvegar um land eins og hann.

Þá hefir dr. Passavant ótrauðlega unnið að menntamálum kirkjunnar. Með hjálp auðugs vinar grundvallaði hann árið 1867 *Thiel College* í Greenville, Pa.; byrjaði það sem *akademí* í fremr smáum stýl í bœnum Phillipsburgh, en var 4 árum síðar flutt í bœ þann, þar sem það hefir síðan verið. Akademí í Greensburg og annað í Zelienople komust og á fót að miklu leyti fyrir framkvæmdir hans. En sérstaklega er að minnast menntastofnunar þeirrar, sem hann eftir margra ára vinnu fékk grundvallað seinast á æfi sinni. Það er hinn lúterski prestaskóli í Chicago, sem fyrir að eins þrem árum hóf starfsemi sína, en síðar hefir fengið svo mikinn vöxt og viðgang og vafalaust í framtíðinni hefir ákaflega mikla þýðing fyrir kirkju vora víðsvegar um heimsálfu þessa. Á síðast liðnu vori útskrifuðust 30 menn frá skóla þessum. Í fyrra komu, eins og kunnugt er, tveir Íslendingar þaðan, sem nú eru prestar í hinu litla kirkjufélagi voru.

Árið 1845 kvæntist Passavant Elízu Walters frá Baltimore, sem lifir mann sinn. Börn þeirra eru 7 á lífi. Yfirmaðr missíónsmálanna í *General Council* er einn af sonum þeirra, stórmerkr maðr. — Höfuðbygging Chicago-skólans heitir *Eliza Hall* í höfuðið á Mrs. Passavant. Var það nafn tekið upp Passavant og konu hans til heiðrs án þess þau vissu af.

Enginn maðr þekkti eins vel allar ástœður lútersku kirkjunnar eins og dr. Passavant, og enginn breiddi sig eins í trú og kærleik út yfir hin einstöku brot hennar, hina ýmsu lúterku flokka með hinu mismunanda þjóðerni. Kirkjufélag vort naut kærleiks hans og fyrirbœna, og höfum vér lúterskir Íslendingar, „fáir, fátœkir, smáir“, í frumbýlingsskaparbaráttu vorri hér í landinu engan jafnhlýjan og tryggan vin eignazt eins og hann. Þess þarf varla að geta, að hann áleit það lífsspursmál fyrir þjóð-

flokk Íslendinga, að kirkjufélag vort fengi komið upp hinni fyrirhuguðu skólastofnan sinni.

Af hinum mörgu einstaklingum, sem persónulega ástœðu hafa til að minnast dr. Passavants með lotningarfullu þakklæti, er ritstjóri *Sameiningarinnar* einn. Þó að vér sæjum hann aldrei í þessu lífi, fórum vér sannarlega ekki varhluta af kærleik hans. Kom það einkum fram meðan vér áttum erviðast í undangengnum sjúkdómi vorum. Hann bar þá umhyggju fyrir lífi voru eins og faðir, og kom þar auðvitað fram kærleikr hans til hins veika og stríðanda kirkjufélags vors og þjóðflokksins íslenzka yfir höfuð.

---

# SKUGGINN.

Þá er njósnarmennirnir, er að tilhlutan Mósesar voru sendir til Kanaanslands úr eyðimörkinni austr frá Jórdan og Dauða hafinu, voru aftr komnir til herbúða Ísraelsmanna, var spunninn upp sá orðrómr, sem í einni svipan breiddist út meðal almennings, að Kanaansmenn, sem njósnarmennirnir höfðu séð, væri svo voðalegar persónur, að Ísraelsmönnum myndi bráðr bani búinn, ef þeir kœmist inn í land þeirra. Tóku þeir þá að mögla, eins og fólk einatt gjörir gagnvart leiðtogum sínum, ef einhver ný hætta verðr sýnileg. Og svo rammt kvað að þessu, að almenningr Ísraels ætlaði að grýta þá Móses í hel fyrir það að vera að leiða þá út í þennan voða, og þótti nú ekkert annað fyrir hendi en að hverfa aftr til Egyptalands. Þá tóku þeir Jósúa og Kaleb, höfuðmennirnir úr hópi þeirra, er landið höfðu skoðað, til máls í því skyni að koma viti fyrir lýðinn. Og meðal annars, sem þeir þá tóku fram Kanaansmönnum viðvíkjanda, til þess að draga úr hræðslu Ísraelsmanna við þá, var þetta: „Skugginn þeirra er frá þeim vikinn“. Þessi orð standa reyndar ekki í íslenzku biblíunni, heldr hefir í þeirra stað verið sett: „Vikin er frá þeim þeirra vörn“ (4. Mós. 14, 9), og er á líkan hátt vikið frá orðalagi frumtextans í vanalegum biblíuþýðingum á öðrum tungumálum. Biblíuþýðendrnir hafa hugsað, að almennum lesendum myndi skiljanlegra, ef þetta væri orðað

þannig. Vér höldum oss þó hér við orðin í hinum upphaflega búningi þeirra, með því að þau skýra svo ágætlega efni það, er vér vildum nú tala um. Þá er þeir Jósúa tóku fram, að skuggi Kanaansmanna væri frá þeim vikinn, vildu þeir, að Ísraelslýð yrði skiljanlegt, að þetta fólk væri engan veginn svo hræðilegt; þeim væri nauða-illa borgið, þar sem þeir væri sviftir því, er þeir gæti haft fyrir skugga til að skýla sér með. Það er nærri því sama og sagt hefði verið: „Guð sjálfr er frá þeim vikinn“; enda segja þeir rétt á eftir: „og drottinn er með oss; verið óhræddir!“

En nú er að athuga skuggana, sem tilheyra mannlífinu almennt. Vér hræðumst yfir höfuð að tala skuggamyndir lífs og dauða, og því verðr aldrei neitað, að þær eru í sannleika sumar — margar — hræðilegar, sorglegar, grátlegar. En það eru líka til inndælar skuggamyudir. Forsælan og myrkrið og nóttin eru líka drottins, og svo er þá líka öllu þessu dýrmætt evangelíum samfara. Það er inndælt að sitja úti eða ganga úti á sumarkvöldum eftir brennheita daga, af því að maðr er þá kominn í skuggann. Það gleymist oss sízt nú, er hinn heiti árstími enn þá einu sinni er nýkominn til vor. Ó, hve inndæl eru sumarkvöldin eftir þessa heitu daga! Myrkrið kvöldsins og nætrinnar — hvílík blessuð sólhlíf frá drottni! Meðan nóttin stendr yfir útanda jurtirnar því loftefni, sem myndi deyða þær, ef nóttin kœmi ekki yfir þær. Sama lögmálið ræðr í hinu siðferðislega og andlega lífi manna. Mannlífið er stundum dimm nótt, mannssálin öll í skugganum. Menn barma sér út af því náttmyrkri, og gleyma því, að það hjálpar einatt hinu andlega lífi svo stórkostlega við. Hvernig þá? Á þann hátt, að það hverfa þá svo mörg öfl úr manneðlinu, sem myndi gjöra út af við manninn, ef allt af væri dagsbirta og sólskin. — Lítum á þjóðlíf Ísraelsmanna. Hið 40 ára langa ferðalag um eyðimörkina var ein samanhangandi ervið nótt. Þeir voru allt af í skugganum: sífellt í hættum, þrengingum, með opinn dauðann fyrir augunum. Hugsum oss, að þeir hefði á 2 eða 3 vikum, því leiðin er nú í rauninni ekki lengri, þrengingalaust komizt til hins fyrirheitna lands, sloppið við þessa löngu og þreytandi nótt. Myndi þeir hafa náð landinu og haldið því þá? Engan veginn. Þeir myndi hafa legið flatir fyrir Kanaansmönnum, og annaðhvort allir fallið fyrir sverðseggjum þeirra, eða, því að berjast

myndi þeir naumast hafa árætt, á augabragði orðið að aumustu undirlægjum þeirra og þrælum. Vantrúin, hugleysið, hviklyndið þurfti að hverfa úr þjóðarkaraktér Ísraelsmanna, áðr en þeir fengi gjört landið að sínu eigin. Og þetta fór líka á þeirri löngu og erviðu nótt. Nú skiljum vér þessi undarlegu 40 ár í sögu Ísraels. Nú skiljum vér hina blessunarríku þýðing þessarar skuggafullu nætr fyrir þeirra þjóðlíf. Nú skiljum vér hið dimma tímabil seinna í þjóðarsögu þeirra, er þeir sátu harmandi, eins og á nóttu, í útlegðinni í Babýlon. Meðan þeir sátu í þeim skugga hvarf hjáguðadýrkunartilhneigingin úr sálum þeirra. Þessar nætr í þjóðlífinu, sem allar þjóðir hafa meira eða minna af að segja, eiga að gjöra það, sem nóttin gjörir í náttúrunni við jurtalífið. Oft þegar sólin stendr hæst fyrir þjóðunum með tilliti til hagsældar og velgengni í jarðneskam efnum, þurfa þær að biðja með viðlíka orðum og Esajas leggr Móabsmönnum í munn til forna: „Láttu skugga þinn um miðdegið verða sem um nótt“ (Esaj. 16, 3). Og svo líf hins einstaka manns. Vér höfum dœmisögu frelsarans um hinn týnda son. Það var aumt ástand, sem hann komst í. Þvílík niðrlæging! Þvílíkt svarta náttmyrkr! Syndir hans og svívirðingar leiddu þetta að sjálfsögðu yfir hann. En guð var í því náttmyrkri. Og hann grœddi á þeirri dimmu tilveru. Hann hætti að langa til að lifa eins og hann hafði svo lengi gjört, í syndinni. Hann sneri heim til föðurhúsanna upp úr þeirri dimmu þrenginganótt. — Hefði ekki nóttin einhverja mikla þýðing í náttúrunni, þá hefði guð aldrei skapað nóttina. Og hefði dimman í mannlífinu enga þýðing, þá hefði guð líka svift henni burtu úr tilverunni, eða réttara sagt aldrei látið skyggja að. Ef oss ætti engin blessan að standa af skugganum, ef guð almáttugr ekki gæti komið til vor í myrkrinu eins og í sólargeislunum, með sína frelsandi og friðandi náð, þá væri hér enginn skuggi til á jarðneskum stöðvum vorum. Frelsarinn hefði, þegar hann kom í heiminn, gjört út af við allt myrkr, svo að segja hefði mátt með tilliti til allra hér á jarðríki þaðan í frá: „Skugginn þeirra er frá þeim vikinn“. En þessu víkr alls ekki þannig við. Myrkrið, nóttin, skuggarnir og forsœlan fylgja drottni komanda með sinn kærleik til mannanna. Því sagði og Davíð, lofsyngjandi: „Hver sem býr undir varðveizlu hins œðsta, sá hvílir óhult í skugga hins almáttuga“ (Sálm. 91, 1).

Og þegar Esajas spáir um hið sæla ástand í heiminum eftir að ríki hins fyrirheitna frelsara er þar grundvallað, þá segir hann meðal annars: „Og drottinn mun láta þykkt ský staðnæmast um daga yfir hverju byggðu bóli á Síonsfjalli og yfir hverri samkomu, sem þar verðr haldin, en ljómanda eldsloga á nóttum, því yfir öllu því, sem dýrðlegt er, skal skýla vera. Og laufskáli skal vera til forsœlu fyrir hitanum á daginn og til hœlis og skýlis fyri steypiregnum og skúrum“ (Esaj. 4, 5-6). Þá má og minnast hins undarlega atviks seinast í Jónasar spádómsbók: Í þungu skapi hafði spámaðrinn dregið sig út fyrir borgina Nínive, óánœgðr og jafnvel reiðr við drottin út af því, er hann vildi vera láta. Hann hafði gjört sér þar laufskála og sat þar í forsœlunni, bíðandi eftir því, hvernig hinni heiðnu borg reiddi af. Þá lét drottinn guð undrnjóla upp spretta og vaxa upp yfir Jónas til þess að bera skugga á höfuð hans og frelsa hann frá því, sem honum var að meini. Og spámaðrinn varð svo hjartansfeginn að vera kominn í þennan friðanda og svalanda skugga. En svo árla næsta morgun kom ormr, og ormrinn stakk njólann, og njólinn visnaði, og skugginn hvarf; spámaðrinn missti skugg-ann sinn; hann vanmegnaðist í steikjanda sólarhitanum, óskaði sér dauða og sagði: „Mér er betra að deyja en lifa“. — Hve inndælt að fá að vera í skugganum — slíkum skugga! Hve aumt, þegar skugginn — slíkr skuggi — er vikinn burtu frá manni! Út af skugganum, sem Jónas sat í, minnist Hallgrímr Pétrsson á skuggann, sem á guðs börn ber af krossinum Krists, og segir:

„Jesú krossskugga skjólið hér
skýlir þó langt um betr mér“ o. s. frv.

Kristindómrinn með sínu krossins evangelíi varpar svörtum skugga yfir mannheiminn. Allir, sem vilja frelsast eða eiga að geta frelsast, verða að draga sig í þann skugga. Þegar augu manns hafa opnazt, svo að hann sér synd sína og hefir af henni hryggð, þá er sá hinn sami maðr kominn í skuggann, þann skugga, sem hér er um að rœða. Og sá skuggi fylgir trúuðum kristnum manni, hvar sem hann er á ferð og hvernig sem högum hans er háttað, eins víst og samkvæmt náttúrulögmálinu skuggi ávallt fylgir líkamanum, svo lengi sem sólin eða ljósið skín á líkamann. Vantrúin rís á móti hinu opinberaða orði

guðs, sem biblían hefir meðferðis, fremr öllu öðru fyrir þá sök, að mennirnir, sem það afl geyma innanbrjósts, vilja ekki komast í skuggann, kannast við hina svörtu hlið sína, krossfesta hinn náttúrlega mann sinn, leggja bak sitt undir krossinn Krists og tilbiðja hann. Menn œstust á móti frelsaranum til forna af því hann dró svo svartar myndir af lífi þeirra, lét guðlegan skugga falla yfir þá. Og engu í kristindóminum reiðast menn eins illa og því, að hann varpar burt hinum skínanda hjúpi, sem syndararnir klæða sig í, og lætr þá sjá skuggamyndirnar af þeim sjálfum. — Hvernig stendr þá á því, að Jónas spámaðr gladdist svo hjartanlega yfir því, er hann komst í skuggann, hryggðist svo innilega, er skugginn vék burtu frá honum? Hverju sætir það, að skuggi hins almáttuga, sem sumir lofsyngja svo mjög út af, kemr öðrum til að illskast og reiðast? Skuggarnir í náttúrunni geta hér leiðbeint oss. Menn ýmist hræðast þá eða hlakka til þeirra. Að því leyti, sem þeir taka birtuna burtu frá mönnum, hafa þeir óbeit á þeim; að því leyti, sem þeir gefa mönnum skjól gegn brennandi hádegissólinni, fagna menn þeim. Kristindómrinn er bæði lögmál og evangelíum. Lögmálið tekr birtuna burt, gjörir alla að sekum syndurum, lætr einn svartan blett eftir annan koma út, þar sem allt átti að vera skínandi bjart. Það kemr sér illa. Það kemr mönnum aftr og aftr til að reiðast drottni. Og kemr þá fyrir þeim mönnum, meðan svo stendr, evangelíum alls ekki til greinar. Það skýlir, en vel að merkja engum nema þeim, sem draga sig í skuggann. Þeir einir, sem það gjöra, geta í dimmunni undir krossinum lofsungið út af því, að þeir hvíli óhult í skugga hins almáttuga.

Jesús var alla sína jarðnesku æfi í skugganum. Ó, hve sorglegr sá skuggi! en, ó, hve blessaðr sá skuggi! Aldrei var skugginn eins dimmr eins og seinustu stundirnar, sem hann lifði á krossinum. Sólin missti þá algjörlega birtu sinnar. Við byrjan þess ógrlega myrkva hrópaði frelsarinn: „Guð minn, guð minn, hvers vegna hefir þú yfirgefið mig?“ Svo dimmt var þá í hinni heilögu sálu. En dýrð drottins var í þeim dimma skugga, og hún kom þar sýnilega fram áðr en lauk, eins og sést á þessu friðsæla andlátsorði: „Faðir, í þínar hendr fel eg minn anda“. — Nú sést, að allt hið mesta og bezta hér á jörðu á heima í skugganum. Blessaðr sé krossskugginn Jesú, blessaðir allir

skuggar, sem falla af öllum kristilegum krossum. Ó, hve dýrðlegir geta skuggar lífsins og dauðans orðið, þegar á móti þeim er tekið í Jesú nafni. „Kraftr hins æðsta mun yfirskyggja þig“, sagði engillinn við Maríu, er hann boðaði henni þau óumræðilegu tíðindi, að hún ætti að verða móðir frelsarans. Kraftr hins æðsta yfirskyggir allar þær sálir, sem frelsarinn fæðist andlega hjá.

Skugginn þýðir trúna og guðsóttann í mannshjartanu. Skugginn þýðir það skjól, þá vernd, þá huggan, þann frið, þann fögnuð, sem sá nýtr, er aðhyllist og elskar drottin og geymir orðið hans í góðu og siðsömu hjarta. Skugginn þýðir það, að hafa í trúaðri og auðmjúkri bæn umgengni við frelsara sinn. Skugginn þýðir það, að sitja undir krossi Krists. En þegar hjörtun eru ormstungin af vantrú, eigingirni, kærleiksleysi og öðrum ódyggðum, þá er skugginn horfinn og ekkert skjól lengr til fyrir sálina á hinni vondu tíð. — Sleppi enginn því, sem gefr skugga og skjól á mótlætisins og dauðans tíð. Það er hryggilegt ástand að vera búinn að missa skuggann sinn.

Það er sagt eins og annað æfintýri, að ef líkami einhvers manns ekki gefr neinn skugga frá sér, sem stundum komi fyrir, þá sé sá maðr feigr. Það er sannleikr falinn í þessari hjátrú. Maðrinn, sem forherðir sig á móti guðs orði, hinum endrleysanda boðskap kristindómsins, og fyrir fullt og allt dregr sig burt úr skugganum, sem einmitt með guðs orði er varpað yfir tilveruna, — sá maðr er í andlegum skilningi feigr. Sálarheill hans er í veði. Margir hugsa nú eflaust: „Eg trúi, og þá er mér að minnsta kosti, að því er þetta snertir, óhætt“. Nei, sannleikrinn er ekki enn allr dreginn fram úr þjóðsögninni. Aðalsannleikrinn, sem í henni fellst, er eiginlega eftir, því sögnin er svona: „Sá, sem misst hefir skuggann sinn, — nefnilega skugggann af sjálfum sér, sínum eigin líkama, — hann er feigr“. Það er til ónýtis að trúa, standa í skugga kristindómsins, ef maðr sjálfr ekki gefr neinn skugga frá sér, viðlíka skugga og á mann sjálfan fellr frá guði almáttugum, til þess að skýla þeim, sem með manni ferðast gegnum lífið og fram á móti dauðanum. Með öðrum orðum: trúin, sem vantar kærleik til mannanna, er einskis virði. Og með slíkri trú eru menn í andlegri dauðans hættu. Skugginn, sem af þér á að falla yfir aðra menn, er kærleikinn.

Og er þú athugar það, fer þér þá ekki — með hinu ríkjanda kærleiksleysi manna á meðal, — að sýnast hugsanlegt, að margir kunni í vorum hópi að vera feigir? Er ekki hugsanlegt, að þú sért í þessum skilningi feigr, að andlegr dauði sé að læsa sig inn að rótum hjarta þíns?

Vér lesum í Gjörðabók postulanna (5, 15), að menn hafi borið sjúklinga út á strætin í Jerúsalem og lagt þá þar á rekkjur og legubekki í því skyni, að þá er Pétr postuli kœmi þar, þá félli að minnsta kosti skuggi hans á einhvern þeirra. Vér sjáum hér útskýringarlaust, hvað skugginn táknar. Láti þá hver einasti kristinn maðr viðlíka skugga af sér falla yfir einhverja bágstadda náunga sína. Menn láti almáttugan guð geta notað sig, til þess að leiða þá, sem vantar skjól og vernd, hjálp og huggun, í hinn blessunarríka skugga, er hann sjálfr fyrir Jesúm Krist varpar yfir þessa jarðnesku tilveru, — til þess að sem flestir geti lofsungið guði fyrir að vera undir skjóli og skugga hins almáttuga.



## *ÁVÖXTRINN AF HVÍTASUNNU-KRAFTAVERKINU.*

Til er *félag*, sem eldra er og meir útbreitt á jörðinni heldr en nokkurt annað félag. Það lifði og þróaðist á hinum myrku og hjátrúarfullu miðöldum; það lifir og útbreiðist á þessari upplýsingaröld; og aldrei hefir það fyr breiðzt neitt líkt því eins mikið út og nú. Óteljandi mótspyrnur hafa risið upp á móti því; óteljandi fjandmenn hafa reynt að varpa því um koll. Stundum hafa líkamleg drápsvopn verið á lofti til að vinna á áhangendum þess. Stundum hafa voldugar ríkisstjórnir beitt öllum sínum kröftum til að vinna svig á því. Margir gáfaðir menn og lærðir menn hafa beitt öllu sínu andans afli á móti því. Félagið hefir staðizt öll þessi œgilegu ofsóknaröfl, hefir meir að segja dafnað því meir sem ofsóknirnar hafa verið ákafari og œðisgengnari. Og þó hefir félagið sjálft margoft gengið með voðalega spilling, eða jafnvel dauðann sjálfan, í sínu eigin skauti. Sína hættulegustu óvini hefir það einatt átt meðal sinna eigin lima bæði œðri og lægri. Með lífi sínu og hugsunarhætti

hafa þeir margsinnis sært þess hjartastað; og svo langt hefir þetta stundum gengið, að ekkert hefir virzt vera eftir af félaginu nema nafnið tómt. En þrátt fyrir allt þetta lifir félagið. Og þegar sorgir og hörmungar eru á ferðinni, þegar hin jarðnesku gleðiljós eru öll slokknuð, þegar leiðin liggr út í hinn dimma dal og dauðans skugga, þá finna mannssálirnar þúsundum eða öllu heldr milíónum saman, að þetta eina félag, svo lítils virt sem það einatt er á dögum meðlætisins, hefir það meðferðis, sem vert er að halda í dauðahaldi, vert að lifa fyrir og deyja fyrir.

það er félagið undarlega, sem til varð á hinni fyrstu kristnu hvítasunnu, — kristileg kirkja.

Til er *orð*, sem andmælt hefir verið meir en nokkru öðru orði, af því það hefir sært svo marga heilbrigða menn og hrausta, orð, sem iðulega er hatazt við og hæðzt að, af því það segir mönnum svo hisprslaust til syndanna, — en líka orð, sem óteljandi mannssálum hefir verið dýrmætara en nokkurt annað orð, af því það hefir huggað svo marga hrygga, læknað svo marga sjúka og sára, lífgað svo marga andlega dauða, orð, sem heilir hópar fólks um margar aldir víðsvegar um lönd heimsins hafa dáið fyrir glaðir og lofsyngjandi, af því það sýndi þeim inn í dýrðarhimin guðs, hins himneska föður, opnaði þeim aðgang að innsta helgidómi í hinu kærleiksríka hjarta guðs.

það er orðið, sem kristindómsprédikanin heldr á lofti, þetta einstaklega, yfirnáttúrlega, guðlega orð, — orðið himneska og heilaga um synd mannsins og náð guðs í Jesú Kristi, — orð sáluhjálparinnar, sem lærisveinarnir drottins gengu með út í heiminn fram fyrir allan lýð eftir að á hvítasunnunni var yfir þá kominn andinn, sem samkvæmt fyrirheitinu skyldi leiða þá í allan sannleikann, — hið kristilega orð trúarinnar, vonarinnar og kærleikans.

Himinn og jörð munu líða undir lok, en orðið — þetta guðs orð kristninnar — skal aldrei undir lok líða.

Til er *afl*, sem meira er en öll hin svo kölluðu náttúruöfl. Menn vinna einn sigrinn öðrum frægari og stórkostlegri yfir náttúrunni á þessari öld með hennar eigin öflum. Menn láta gufuaflið fljúga með sig yfir sjó og land hringinn í kring um jarðarhnöttinn á fáum dögum. Menn láta hljóðbera flytja orð

sín úr einni borg í aðra. Menn láta fréttafleygi bera hugsanir sínar út heimsendanna á milli á minna en einni sekúndu. Menn gjöra sér veg í gegnum fjöllin og láta blágrýtishamrana hrökkva undan sér nálega fyrirhafnarlaust. Slík feikna-öfl í ríki náttúrunnar, sem mennirnir þekkja og geta nú, miklu meir en nokkurn tíma áðr í mannkynssögunni, látið þjóna sér! Hví skyldi menn eigi undrast þau? Hví skyldi mönnum ekki finnast mikið til um það, hve volduga þjóna þessi öld hefir í þeim fengið til að hrinda mannkynssögunni áfram? En eitt afl er þó til, sem meira og dásamlegra er öllum þessum undra-öflum náttúrunnar. Kaldr og ömurlegr fimbulvetr hefir lagzt yfir mannssálina, og hún sér ekkert fram undan sér annað en huggunarlaust dauðamyrkr. Er þá nokkur náttúrukraftr til, sem geti látið þann andlega vetr hætta og bjarta og blíða hvítasunnu, himneska dýrðarsól, upprenna í myrkrunum, svo að gaddrinn, sem nístir hjartað bráðni, og inndæl sumarblóm taki að spretta yzt út við heimskaut? — Nei, enginn náttúrukraftr megnar neitt þvílíkt. En það er til afl, sem vér köllum náðarafl, yfirnáttúrlegt, himneskt, guðlegt afl, og það megnar að koma þessu til leiðar. Það er sama sem kærleikr Krists. Þetta er aflið mikla, sem verkanda er í hinu kristna mannlífi, aflið, sem meiri undrum hefir komið til leiðar en öll náttúruöflin til samans.

Það er stundum sagt úti á Íslandi: Væri búið að flytja þessa klakabundnu og hróstugu ey nokkrum mælistigum lengra suðr í höf, þá breyttist brátt allr hagr landsins; það kæmi hlýindi, jöklarnir bráðnuðu, hafísinn hyrfi. Og allt yrði, yfir höfuð að tala, öðru vísi en er. En það kemr engum til hugar, að slíkt geti orðið. Menn vita, að enginn náttúrukraftr getr flutt Ísland úr stað. Enginn náttúrukraftr fæst til að bræða jökulinn á Íslandi. En andlega jökulinn, sem kreppir að þjóð vorri hvort heldr er hér í landi eða úti á Íslandi, má bræða, en það verðr með engu öðru en kærleiksafli kristindómsins. Á hinni fyrstu kristnu hvítasunnu bráðnuðu klakabundin hjörtu 3000 manna. Og við það varð hinn fyrsti kristni söfnuðr til. Kristileg kirkja hóf þar sína sigrgöngu.

Hvaðan kom aflið, sem bræddi hjörtun við það tækifæri?

Það kom frá því orði, sem einn af lærisveinum drottins flutti mönnum eftir að hann ásamt þeim hinum var orðinn fullr

af heilögum anda. Það kom frá orðinu, sem flutti þann boðskap, að gjörvöll hin synduga kynslóð mannkynsins hefði eignazt guðlegan endrlausnara, þar sem Jesús Kristr væri, hinn krossfesti og upprisni.

Og orðinu kristilega, postullega, fylgir sama yfirnáttúrlega aflið enn. Það kemr fram í hvert skifti, sem þessu orði er viðtaka veitt af mannshjartanu.

Þvílíkt blessuð yfirnáttúrlegt undra-afl, sem til syndugs og sorgum hlaðins mannshjartans getr æfinlega komið frá orðinu drottins!

---

Séra Steingr. N. Þorláksson, sem dvalið hefir í Noregi síðan í haust ásamt konu sinni og börnum, er nú nýkominn aftr hingað vestr.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., sendir út „Sameininguna“.

---

Þeir, sem í skuld standa við SAMEININGUNA, gjöri svo vel að borga þá skuld ína. Féhirðir blaðsins er hr. JÓN BLÖNDAL, 545 William Ave.

---

KVITTANIR: Til bókasafnsins frá séra Birni B. Jónssyni $15.00, Stefáni Gunnarssyni (Wpg) $0,50, og Jóhönnu Marteins (Wpg) $0,50. Til skólans frá Ólafi Nordal í Selkirk $1.00.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; þriðji ársfjórðungr 1894.

6. lexía, sunnud. 5. Ágúst: Skírn Jesú: Mark. 1, 1—11.
7. lexía, sunnud. 12. Ágúst: Freisting Jesús: Matt. 4, 1—11.
8. lexía, sunnud. 19. Ágúst: Fyrstu lærisveinar Jesú: Jóh. 1, 35—49.
9. lexía, sunnud. 26. Ágúst: Fyrsta kraftaverk Jesú: Jóh. 2, 1—11.

---

Biblían og nýjatestamentið er til kaups hjá ritstjóra *Sam.*

---

**Ísafold,** lang-stœrsta blaðið á Íslandi, kemr út tvisvar í viku allt árið, kostar í Ameríku $1.50. W. H. Pálsson, 618 Elgin Ave., Winnipeg, er útsölumaðr.

---

**Sunnanfara** hafa W. H. Pálsson 618 Elgin Ave., Winnipeg, Sigfús Bergmann, Garðar, N. D., og G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn. Í hverju blaði mynd af einhverjum merkum manni, flestum íslenzkum. Kostar einn dollar.

---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.